# DAGSBRÚN.

Ritstjóri: *MAGN. J. SKAPTASON.*

I. GIMLI, MAN. JANUAR 1893. 1.

Lengi hefir það dregist, en loks hefir það tekist, að vér gætum komið fram og látið skoðanir vorar fyllilega í ljósi fyrir löndum vorum. Fyrir ári síðan var það afráðið, að vér skyldum reyna, að koma á fót mánaðarriti til stuðnings stefnu vorri í trúmálum, en þá voru litlar líkur til, að því yrði framgengt að sinni, Nú er þó svo komið, fyrir hjálp góðra frjálslyndra drengja, að vér getum sent út hið fyrsta eintak blaðs vors. Eins og getið var um í boðsbréfinu í fyrra, á það að vera mánaðarblað, á stœrð við tímaritið „Sameiningin“ og á árgangurinn að kosta $1.00 borgaður fyrir fram eða við móttöku hins fyrsta eintaks.

Um stefnu ritsins er það að segja, að það á að skýra trúmál vor, og hugsanir vorar í þeim efnum fyrir alþýðu manna, Eins og kunnugt er, höfum vér Ný-Íslendingar sagt oss úr hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vesturheimi, af þeirri ástæðu, að vér trýðum ekki fordœmingarkenningu kirkjunnar, og ekki heldur bókstaflegum innblæstri ritningarinnar. Þetta hvorutveggja finnst oss vera niðurlægjandi hátign og heilagleika skaparans, vera siðspillandi lærdómur fyrir hvern þann mann, sem trúir honum og það sem mestu varðar, vera sannleikanum mótstríðandi; vera mótstríðandi öllum sögulegum, vísindalegum og náttúrlegum sannleika. Vér biðjum menn að gæta þess, að það er ekki ótti fyrir yfirvofandi hegning, ekki óskin að sleppa við kvalir hinna fordœmdu, (sem kallaðar eru) er knúð hefir oss fram til að gjöra heyrum kunna þessa vora frjálsu trú, heldur hitt, að vér í hjörtum vorum erum svo sannfærðir um skaparans óendanlega, ómælilega kærleika til sinna barna, vér finnum svo vel til hins guðdómlega eðlis, sem í oss býr, vér finn-

um svo vel til þess, að hann faðirinn elskulegi er hátt upphafinn yfir oss auma og brotlega, vér finnum það svo vel, að hjá honum hlýtur kærleikurinn, réttlætið, almættið og vizkan að vera á hæðsta stigi; ekkert óhreint, ekkert auðvirðilegt, ekkert ranglátt, ekkert ófullkomið getur honum verið eiginlegt; sem skapað hefir þenna undra heim, sem stjórnar þessum andans öflum, sem hræra sig hjá mannflokkum þjóðum og einstaklingum, hjá honum sem er upphaf og aðili hinnar veglegustu tilfinningar í hjörtum vorum kærleikans. Það er dýrðin hans, sem vér viljum víðfrægja, það er hans tilbeiðsla, sem vér viljum efla, það er hugmyndin um hann, sem hinn fullkomna, hreina heilaga og góða, sem vér viljum reyna að skýra fyrir löndum vorum. Vér höfum svo átakanlega þreifað á því, að hinar eldri hugmyndir kirkjunnar gefa ekki Guði hvað Guðs er, og vér höfum fundið svo margar gloppur á fyrirdœmingar-kenningunni, vér getum meira að segja rakið hana til upphafs síns og vitum hvaðan hún er komin; vér höfum séð náttúrufrœðina, jarðfrœðina, málfrœðina, þjóðafrœðina (ethnologia) stjórnfrœðina tæta svo í sundur hinn bókstaflega innblástur, að vér myndum ekki geta litið framan í nokkurn mann, ef vér færum að segja, að biflían væri öll guðdómlega innblásin. Fyrir þessu öllu ætlum vér með Guðs hjálp, að gjöra fulla grein í blaði voru. Því er svo varið, hvort sem er, að engum heilvita hugsandi manni er mögulegt að trúa því sem guðdómlega sönnu, er hann veit með sjálfum sér að er rangt. Vér Íslendingar höfum allt of lengi legið í draummóki, en nú er dagur risinn, nú er andi þjóðarinnar vaknaður, nú loks er alþýða manna farin að hugsa; hún er farin að finna það, að sjálfs er höndin hollust; að finna það, að úr því hún á að ábyrgast sjálf, þá þarf hún að hugsa sjálf, að henni dugir ekki, að byggja sitt hið helgasta málefni á sögusögn annara, sem þá optlega vilja misjafnt gefast, eins og gengur.

Þjóðin er vöknuð, vér viljum skýra fyrir henni málefni þetta,sem frekast er unnt. Mannasetningar eða mannaboðorð hirðum vér eigi um. Ef tími leyfir getum vér skýrt svo hina helgu sögu, að þar komi margt í ljós, sem áður hefir hulið verið. Sannleikann, þann fyllsta sannleika, sem vér þekkjum, viljum vér boða mönnum. Í trúmálum sem öðru getum vér ekki á öðru byggt enn sannleika þeim fyllsta, er vér getum fundið, vei þeim, er annað hugsa, það væri að svívirða og niðurlægja Guð, svívirða og niðurlægja mannkynið. Það er trú vor, að vér séum Guðs ættar, hans synir og dœtur, að vér séum andi af hans anda, sálir af hans sálu, að vér séum einlagt á fullkomnunar og framfarastigi, einlagt á leiðinni, að komast nær og nær föðurnum elskulega. Margt er hjá oss bogið, margt er hjá oss ábótavant, mörg er vor syndin,

en um fram alla hluti, þá skulum vér ekki hugsa oss Guð föðurinn minni, eða ófullkomnari, eða ranglátari, en vér erum sjálfir; upp til hans þurfum vér að líta, ekki með augum annara, hvorki með augum kirkjufeðra eða trúfræðinga eða klerka, vér sjáum svo aldrei með þeim á degi dómsins, með vorum eigin augum, með vorri andans æðstu sjón skulum vér líta hann hinn heilaga; með vorum beztu andans kröptum skulum vér reyna, að þoka oss upp til hans tröppu af tröppu, stig af stigi. Allt hið ósanna, rangláta og óhreina verður að víkja, hvort heldur það er í dagfari, hugmyndum eða kenningum. Einlægt höfum vér veikir verið, en með vaxandi þekkingu kemur vaxandi betrun. Aldrei höfum vér fullkomnir verið; vísindin segja oss, að aldrei höfum vér haft „háleita þekkingu eða hreint hugarfar eða sælurikan sálarfrið".* Frá því smáa til hins stóra, frá því ófullkomna til hins fullkomna hefir brautin legið og mun liggja til eilífðar. Vér getum ekki búist við að þeir verði með oss, sem hugsa sér Guð samkvæmt hugmyndum Gyðinga og óskum þess ekki heldur, en alla hina bjóðum vér velkomna, sem hugsa sér Guð, eptir því hinu æðsta, göfugasta, hreinasta, fegursta, sem mannleg hugsun getur tilbúið. Dómar annara liggja oss í léttu rúmi, þeir mega vista oss, hvar sem þeir vilja í sölunum neðri, þeir mega steypa yfir oss öllum þeim ógnum, sem kirkjufeður og klerkar hafa hellt yfir mannkynið, nú í nærfellt 1900 ár, það skelfir oss ekki, það heptir oss ekki, enginn ótti, enginn kvíði fyllir hjörtu vor, engar trúfræðislegar kreddur munu vinna á oss nokkurn svig. Vér fylgjum ljósinu Guðs sem í oss býr; að vér erum veikir, að vér erum breiskir og ófullkomnir, það vitum vér vel, og það eitt svíður oss, hvað vér erum langt frá vorum elskulega föður; en þeirri tilfinning fylgir enginn ótti; vér vitum og finnum, að vér erum á leiðinni til hans, vér finnum arminn hans vera útréttann, að styðja oss og leiða oss til sín, vér finnum það í sálum vorum, að því háleitari og veglegri hugmyndir, sem vér höfum um Guð, því léttara verður oss að nálgast hann. Enginn maður hefir svo nokkurntíma orðið sáluhólpinn fyrir þann Guð, sem er óæðri enn maðurinn er sjálfur.

Fram, því vinir! karlar sem konur, til háleitari hugmyndar um skaparann, en kirkja og klerkar hafa kennt oss. Látum þá hugmynd leiða oss og lýsa oss á vegferð vorri, hún skal verða ljós á vorum vegum, og lampi vorra fóta, hún skal styrkja oss í stríðinu við holdið og heiminn, hún skal vernda oss og varðveita á syndanna og freistinganna stigum; í gleði og sorg, í mæðu og mótlæti skal hún halda oss

*Eins og sumir halda fram um vora fyrstu foreldra.

uppi, í gegnum fátækt og eymd skal hún leiða oss. Ef vér vitum og finnum það í hjörtum vorum að þessi vor Guð er með oss, þá getur ekkert yfirbugað oss, vér erum þá glaðir í sorginni, vér erum þá ríkir í fátæktinni, ríkir að traustinu á Guðs óendanlegu náð og miskunn, á hans ómælilega kærleika til sinna barna, sem vér trúum og vitum, að eigi að verða eitt með honum að lokum.

Þjóðin íslenzka er vöknuð af löngum, þungum svefni, þörfin og nauðsynin er knýjandi, að röddin hrópi úr eyðimörkinni og beri sannleikanum vitni, að minnsta kosti hér í Ameríku; bræður vorir á Íslandi eru betur settir í því tilliti, það er meira frjálslyndi, meiri kærleikur, meiri sannleikur í trúbrögðum heima, en sumstaðar hér í Ameríku. Landar! kæru landar! hvort heldur þér eruð heima á Íslandi, eða víðsvegar dreifðir um Ameríku, rit þetta verður sent svo víða, sem vér höfum vitneskju um að Íslendingar byggi. Nú er tíminn fyrir alla þá, sem unna frjálsri hugsun, fyrir alla þá, sem unna hreinni og kærleiksfullri Guðs hugmynd, fyrir alla þá sem með kærleikanum vilja leiða mennina til Guðs, nú er tíminn fyrir þá, að rísa upp og taka höndum saman við oss, að bindast við oss bræðrabandi að einu og sama marki, að hrinda því, sem hneykslar oss, að hefja það upp, sem gjörir oss göfugri og kærleiksfyllri og velþóknanlegri í augum vors elskulega föður á himnum. Nú er tíminn; með því að kaupa með því að lesa rit þetta þá styrkið þér oss. Vér ætlum að láta yður heyra hugsanir heimsins betur og fyllra, en áður hefir gjört verið, vér ætlum að láta yður heyra um merkar hreifingar í hinni kristilegu kirkju, vér ætlum að láta yðr heyra, hvað vísindin segja að því er trúmál snertir, en um leið ætlum vér að reyna, að byggja upp ástina og tilbeiðsluna og trúna á Guð. Nú er tíminn, leggið ekki hendur í skaut, ef að hreifing þessari koma hnekkir, þá er vanséð hvenær hún rís úr dvalanum aptur. Helfjötur myrkurs og skelfingar mun þá leggjast yfir marga mannssál, sem ella mundi glöð og sæl lofsyngja Guði fyrir alla hans óendanlegu náð og speki og kærleik. En traustið á hann sem öllu stýrir og vonin býr svo rík í hjörtum vorum, að vér efumst ekki um fylgi yðar, því vér vitum, að landa þá má telja í þúsunda tali hér í Ameríku, sem fylgja þessari skoðun vorri.

# Hugleiðingar um ritninguna.

eptir *J. T. SUNDERLAND.*

1. *Uppruni og vöxtur hinna helgu bóka eða biflía heimsins.*

Hver og einn mannflokkur, sem nokkuð er hafinn yfir hið dýrs-

lega ástand hinna villtu þjóða, hefir sína biflíu; hver og einn hinna stœrri trúflokka. Þessar bœkur innihalda hinar æðstu og dýpstu hugmyndir þeirra um samband mannsins við hinn óendanlega alheimsstjórnara, við förunauta sína á lífsleiðinni og við sína innri huldu veru. Í þeim sjáum vér trúna og vonina koma fram í sinni hreinustu mynd, sjáum manninn hungra og þyrsta eptir sannleikanum, vér getum þar speiglað oss í sálarástandi þessara fornu þjóða; hugsanir þeirra koma þar allar í ljós, því þjóðirnar svo að segja fletta þar í sundur hjörtum sínum fyrir guði eða guðum þeim, er þær tilbiðja. Ef vér nú förum að spyrja sjálfa oss, hvað biflía vor sé, þá svara vísindamennirnir oss og segja: Hún er ein af hinum elztu, ekki hin einasta helga bók, er heimurinn á, heldur er hún ein af hinum 9 eða 10 biflíum heimsins. Ef vér förum að tala um innihald hennar, þá verður svar vísindamannanna, að þótt margt sé í henni, sem menn ekki geta fellt sig við, þá sé þó innihald hennar þannig að hún standi ofar öllum biflíum heimsins. En hverjar eru nú hinar aðrar biflíur eða helgar bœkur manna? Þær eru þessar:

1. Vedabœkur Brahmatrúarmanna.
2. Tripitaka Búddhatrúarmanna.
3. Zend Avesta Parsanna.
4. Hinar helgu bœkur Kínverja eptir Confucius.
5. Hinar helgu bœkur Kínverja eptir Laou-tsze.
6. Kóran Mahómetstrúarmanna.
7. Eddur Norðmanna.
8. Biflía Gyðinga, gamla Testamentið.
9. Biflía kristinna manna, gamla og nýja Testamentið.

Enn eru fleiri helgar bœkur hinna ýmsu þjóða, þótt þessar séu helztar. Vér vitum, að Egyptar áttu heilög rit og hafa menn nú að mestu grafið upp eitt þeirra, bók hinna dánu sem kölluð er. Í Babylon og Assyríu, hafa einnig fundist brot mjög merk og mikilsvarðandi, er telja mætti í tölu hinna helgu bóka þjóðanna. Þar sem Hómer kveður um guði Grikkja þá virðist það fremur vera þjóðsöngvar, en það geti heyrt til helgum ritum. Og þó að þeir frændurnir Celtar, Germanar eður Slavar hafi haft ein eður önnur helg rit, þá mun það vera glatað að fullu. Aptur sýnir Edda vor norðmanna svo ljóslega trúarskoðanir Skandinava, lýsir svo háfleygum og veglegum hugmyndum, að hún hlýtur að verða ein í tölu hinna helgu bóka.

Svo virðist, sem þessar helgu bœkur eða biflíur verði til á mjög náttúrlegan hátt. Þegar, er einhver þjóð fer að öðlast nokkra menntun, þegar, er hún fer að hugsa um nokkra ritsmíð, þá eru það hin

helgu rit, sem fyrst er unnið að, og það gengur einhvernveginn á þessa leið: Áður en þjóðin fer að fást við það, að rita nokkuð, og áður en hún þekkir nokkuð til leturgjörðar, ganga mann fram af manni þjóðsögur í ýmsum myndum. Menn segja börnum sínum og afkomendum frá miklum mönnum, eða þá frá stórkostlegum viðburðum, frá hetjum og köppum og hreystiverkum. Sögur þessar ganga frá föður til sonar, frá einum ættlið til annars, frá einum kynflokk til annars, og svo þegar ár og aldir líða, þá eru þær útbreiddar um alla þjóðina og orðnar eign hennar. Með því að allir menn af náttúrunni til eru hneigðir til guðsdýrkunar og þvínær hver einasti kynflokkur manna er herskár, einkum í hinu frumlega ástandi sínu, er þeir standa skammt frá villusiðum og viltu dýrslegu eðli, þá er það mjög svo eðlilegt, að sögur þessar hneigist annaðhvort að trúmálum eða herskap. Þegar svo þjóðirnar fara að finna upp ein eða önnur hljóðfæri, hversu fátækleg, sem þau kunna að vera, og menn fara að venjast við söng, þá fá sögur þessar bragsnið á búning sinn. Af þessum rótum eru öll hetjukvæði, hersöngvar og trúarljóð.

Þegar nú þjóðin er komin á það stig, að hún fer að kynnast letur gjörð, þegar hún hefir fundið upp eitt eða annað stafróf, sem óefað hefir átt langan aldur, þegar hún fer fyrst að rita, þá verður fyrst fyrir henni þessi arfur hins umliðna tíma, þessir söngvar, ljóð og sagnir, þar við bætir hún helgisiðum sínum og guðsþjónustugjörð og færir þetta allt í letur. Það er mjög svo eðlilegt, að henni finnist þetta vera helgast og mest varðandi af öllu, þetta, sem hún hefir í arf tekið frá forfeðrum sínum, sem gengið hefir óslitið frá föður til sonar og eins og verið inndrukkið með móðurmjólkinni. Það er einhver helgi blær yfir því öllu saman, og það sem er háleitast og veglegast verður nokkurskonar vísir eða fræ til hinnar komandi biflíu. Eptir því sem aldir líða, koma upp aðrar ritningar, er meir eða minna snerta trúmál þjóðarinnar. Það bezta úr þeim, það sem er í samræmi við hugsunarhátt þjóðarinnar og trúarstig það, er hún stendur á, það er í heiðri haft og vex í áliti, en hitt leggst í gleymsku eða líður alveg undir lok. Þetta, sem þannig hefir geymt verið og náð nokkurri hefð eða festu, verður smámsaman helgara og helgara, þar til það er sett inn í hin eldri heilögu rit. Þannig fer biflían einlægt vaxandi og fer það eptir ástæðum, hverju eða hve miklu bætt er við hinar helgu bækur. Loks kemur tími sá, að línan er dregin milli rita þeirra, er álítast skuli heilög og þeirra, er ekki skuli vera það, biflíunni er lokað og engu meira er við hana bætt. Er það þá optast afleiðing af einhverju miklu óláni, er komið hefir yfir þjóðina, aðrar þjóðir hafa brotið hana undir sig, eða þá,

að hinn andlegi þroski hennar hefir stöðvast á einn eða annan hátt, þannig er varið og þannig er uppkominn einn flokkur hinna helgu rita þjóðanna.

En helgar bækur geta og komið fram á annan hátt. Þær eiga opt rót sína að rekja til *eins einasta manns*. Einhver mikill maður kemur fram, meðal þjóðar sinnar, sem trúmála höfundur. Hann fær sér áhangendur, boðar trú sína, hefir mikil áhrif á þjóð sína og fær meiri eða minni hluta hennar á sína skoðun. Áhangendur hans vilja geyma æfisögu hans og skrásetja hin helztu atriði kenninga hans. Ef hann sjálfur ritar bók eða bækur, þá er svo sem sjálfsagt, að þær séu biflía flokksmanna hans, eða að minnsta kosti aðal-kjarninn í henni. En fari svo, að trúar-höfundurinn sjálfur láti ekkert ritað eptir sig, þá skrifa áhangendur hans og postular upp sögu af helztu verkum hans og orðum, eins og þeir næst geta komist, og þetta er þá biflía þeirra, að minnsta kosti frumpartur hinnar helgu bókar þeirra. Af biflíum þeim, sem eiga uppruna sinn að rekja til eins einasta manns, getum vér nefnt hinar tvær biflíur Kínverja aðra eptir Confucius og hina eptir Laou-tsze; Búddhista biflíuna eptir Sakya-muni eða Búddha; kóraninn eptir Mahómet og nýja Testamentið samantekið af lærisveinum og postulum Krists.

Við þessar helgu bækur er ýmislegt að athuga, hvernig sem þær eru tilkomnar og er það hið fyrsta að—*tíminn helgar þær*.—

Að svo miklu leiti sem vér þekkjum til, hafa allar hinar gömlu biflíur fengið helgi sína fyrir aldur. Í fyrstu hefir mönnum ekki komið til hugar, að þær skyldu vera heilagar, guðdómlegar, heldur hefir hugsun sú vaknað smátt og smátt á seinni tímum; eptir því sem aldurinn færðist yfir þær, urðu þær helgari og helgari, eptir því sem tímar líða frá hinni fyrstu skrásetning þeirra, fóru menn meira og meira að hneigjast að því, að hugsa sér uppruna þeirra yfirnáttúrlegan. Það sló á þær einhverjum dýrðlegum fortíðarljóma.

Stefna mannlegs hugar verður ætíð sjálfri sér lík, hún verður nokkurn veginn hin sama á hvaða landi og hjá hvaða þjóð, sem er. Hver einstakur hugsar sér benskuárin, sem gullaldur sinn, og svo er um hverja þjóð í heild sinni. Flestar þjóðir fornaldarinnar hafa annaðhvort tilbeðið forfeður sína, eða að minnsta kosti hugsað sér þá gædda yfirnáttúrlegu eðli. Stofnanir ýmsar eða venjur, sagnir, ritningar eða hvaða fornleifar sem gengið hafa í erfðir, kynslóð fram af kynslóð,hafa ætíð fengið á sig meiri eða minni helgi blæ hjá hinum yngri kynslóðum. Einkum á þetta sér stað hjá hinum austrænu þjóðum, með sínum föstu breytingarlitlu venjum og menntun, einmitt þar, sem hinar

stœrri biflíur heimsins fyrst hafa myndast. Naumast nokkur af þessum ritum virðast hafa verið talin heilög í fyrstu. En það, sem feðurnir höfðu í hávegum, það tignuðu börn þeirra, en barnabörn þeirra lyptu því enn hœrra, upp til guðdómlegrar og yfirnáttúrlegrar tignar.

Það mundi verða bæði skemmtilegt og frœðandi, að taka fyrir einhverja eða fleiri af þessum gömlu ritningum og rekja stig fyrir stig, eptir hinum nýjustu og fullkomnustu rannsóknum vísindanna, alla þá leið, sem þær hafa orðið að ganga, frá því þær í fyrstunni voru aðeins mikilsvirtar bœkur og allt til þess, er þœr voru teknar í tölu hinna heilögu rita. Seinna munum vér reyna að skýra, hvernig vor eigin helgu rit hafa til orðið. En hér viljum vér geta þess, að flestar þessar helgu bœkur hafa mjög lengi verið að myndast, jafnvel í fleiri hundruð ára. Sérstaklega á það sér stað með Vedabœkurnar og Zend Avesta og sumar bœkurnar í ritningu kristinna manna.

Hvað gamla Testamentið snertir, þá voru það hinar 5 bœkur Mósesar Jósúa og Dómarabókin, er fyrst náðu helgi á sig, þvínæst spámennirnir; en sá hluti ritningarinnar er kallaður var Hagiographa eða „Chetubim" náði ekki neinni helgi, fyr en skömmu fyrir Krists daga, voru þar í sálmarnir, orðskviðir Salómons og Jobsbók og var þó sá hluti hins gamla Testamentis ætíð í miklu minni metum hafður, en hinar aðrar bœkur þess.

Af bókum nýja Testamentisins virðast bréfin, einkum Páls, að hafa verið talin heilög nokkru fyr, en guðspjöllin eða postulanna gjörningar. En lengi var það þó, sjálfsagt í einar tvær aldir, eptir dauða Krists, að hin kristna kirkja kynokaði sér við, að skoða nokkrar bœkur nýja Testamentisins jafnar hinu gamla, að helgi eða myndugleika. Að minnsta kosti liðu 300—400 ár, áður úrskurðað var, hverjar bœkur skyldu helgar teljast, af öllum hinum mikla grúa, sem ritaðar voru á fyrstu og annari öldinni eptir Krist. Þá var því loksins slegið föstu hverjar skyldu heilagar teljast og hverjum skyldi burtu kastað sem vanhelgum og óáreiðanlegum. Seinna skal betur verða skýrt frá atriði þessu.

Hið annað atriði, sem athugavert er við hin helgu rit, er það, að menn fara brátt, að álíta þau *fullkomin, óskeikul.* Þegar, er menn eru komnir svo langt, að skoða eina eður aðra bók heilaga, þá hætta menn, að sjá galla hennar og verða trauðir til að játa það, eður sjá það, að henni geti í nokkru verið ábótavant. Allt þangað til, að trúbrögð ein hafa framleitt eina eður aðra helga bók, þá eru þau á framfarastigi, þau eru þá í sífeldum vexti og þroskun, einnig meðan þau eru að mynda þessar sínar helgu bœkur, hvort sem til þess þarf eina eða fleiri aldir.

En sé bókin einu sinni fullkomnuð, þá er þarmeð lokið öllum þroska eður-vexti þessara trúbragða þegar í stað. Eptir það líta menn aðeins til baka, horfa eingöngu á hið umliðna; miða allt við þessa heilögu bók Hvað eina verður að álítast íllt eða gott eptir því, hvort það kemur heim við kenningar *bókarinnar* eða ekki.

Mörg dæmi geta menn fært til að sanna þetta. Á fyrri öldum kunnu menn ekki, að nota málma og fyrir því höfðu prestarnir steinhnífa til þess, að slátra með fórnardýrum sínum, (þannig Gyðingar). Seinna fóru menn að komast upp á, að vinna málma og skyldu menn þá ætla, að prestarnir hefðu farið að taka upp hnífa úr málmi við fórnargjörðir sínar. En það varð ekki. Hinir upphaflegu hnífar voru úr steini og því fannst þeim, sem aldrei mundi annað hæfa, en steinhnífar. Þegar, er *bók* ein hafði helgi náð, gjörði hún trúna sjálfa að steingjörvingi og lokaði fyrir alla framför og endurbót á trúnni. Þá var allt heilagt haldið, hversu ófullkomið eða barnalegt sem það var, það var ekki spurt að því, hvort það stríddi á móti siðferði eða skynsemi eða réttvísi, eins og vér sjáum svo ótal mörg dæmi til í gamla Testamentinu. Hinir barnslegustu helgisiðir og serimoniur voru þá taldar nauðsynlegar til sáluhjálpar. Allt þetta gjörði *bókin*, hefði hún ekki verið, hefði þjóðin vaxið frá hinum ófullkomnu og barnslegu hugmyndum sínum.

Þannig er því varið hjá Indum, að grein ein í Vedabókum þeirra, (og þó að margra áliti misskilin) hefir ollað því, að heilir hópar ekknanna eru brenndir á báli með bændum sínum dánum, (klerkarnir draga þær nauðugar, margopt ölvaðar af einhverju lyfi á bálið og hrinda þeim inn aptur, með spjótalögum í eldinn, ef þær vitkast og vilja komast ofan af bálkestinum). Þannig er það og enn þann dag í dag, að vér sjáum margan helgisiðinn viðhafðan barnalegan, marga kenningu í heiðri hafða í kristninni, sem stríðir á móti allri skynsemi, allri réttlætis-hugmynd. En þessu hefði óefað fyrir löngu verið búið að forkasta, ef að *bókin* hefði ekki staðið þar fyrir, hin helga, hverrar einasta orð, hverrar minnsta bending hlaut að hafa órjúfanlegt gildi um aldur og æfi. Þannig er um suma trúflokka í landi þessu, að enginn á að geta orðið sáluhólpinn, nema hann sé skýrður þannig, að honum sé steypt á kolsvarta kaf, eins og þeir ætluðu að skýrt hafi verið á Gyðingalandi fyrir nærfelt 1900 árum. Hitt gjörir engan mismun hvort það er í hörku frosti eða steikjandi sólarhita. Enn sjáum vér dæmi hjá oss sjálfum hér í Ameríku. Vér þekkjum allir hina nýafstöðnu voðalegu styrjöld, þrælastríðið. Hér voru allir kristnir, hér voru það prestarnir og guðhræddar sálir, sem gengu fremstir í flokki, að stappa stálinu í menn, að halda þræla. Þeir bygðu það á biflíunni, færðu órækar sannanir úr henni fyrir því, að drottinn Guð hefði leyft mönnum að

halda þræla um eilífar tíðir. Þetta er mjög eðlilegt, þegar menn í blindni fylgja ritningunni. Þjóðin, sem setti saman ritninguna, hélt í þá daga þræla og áleit það rétt og leyfilegt. Síðan hafa aldirnar liðið og breitt hugarfari þjóðanna, mannúðin og réttlætis-hugmyndin hefir þroskast svo, að flestar þjóðir sjá það nú, hversu hróplegt það er að halda nokkrum í ánauð. Menn spurðu ekki um, hvað væri rétt, heldur um hitt, hvað *bókin* kenndi. Þetta sýnir hina hraparlegu villu, að látast stjórnast af gömlum bókum, sem menn kannske vita ekkert um, hver hefir samsett. En þessi skoðun fylkti tugum þúsunda þeim megin, sem ranglætið og mannúðarleysið og miskunnarleysið var. Allir sjá nú hversu ókristilegt það var, og hversu það var niðurlægjandi fyrir hinn menntaða heim. En þrælamennirnir höfðu fyrir sér ótvíræð orð gamla og nýja Testamentisins.

Hið þriðja atriði, sem athugandi er við hinar helgu bækur allar, er það, að hver um sig er *álitin sú eina rétta*, og virðist það eiga sér stað um allar hinar helgu bækur heimsins, eða réttara sagt, um alla þá, er á bækur þessar trúa. Þegar er menn álíta bók eina helga, þá ætla áhangendur hennar,að hún sé hin einasta helga bók heimsins, allar aðrar ritningar skulu fordæmdar vera, ásamt áhangendum þeirra. Þannig eru Búddha-trúarmenn hinir bitrustu féndur Brahmanna, Mahómetstrúarmaðurinn hatar Búddhistann og kristnir menn þá alla saman í trúbragðalegu tilliti. En sannleikurinn er sá, að hver ein biflía heimsins hefir margt og mikið gott inni að halda og margt og mikið, sem er einskisvirði, ef ekki beinlínis illt og siðum spillandi. Engin trú er sú, að hún hafi ekki einhvern guðdómlegann sannleika inni að halda, blandaðan saman við lágar og lítilfjörlegar, optlega barnalegar hugmyndir. En það hörmulega við þetta er það, að menn skuli svo að segja höggva augun hvor úr öðrum, í stað þess að viðurkenna hið góða og guðdómlega hjá hverjum einum, hvort heldur hann kallast heiðinn eða kristinn.

(Framhald næst.)

# Athuganir við sköpunarsöguna.

Úr „The unending Genesis“

eptir *H. M. Simmons.*

## INNGANGUR.

Eins og kunnugt er, byrjar biflían með sköpunarsögu heimsins,

og öll sú undra-saga er samandregin í einn einasta, stuttan kapitula. Það er engin langdregin, nákvæmlega sögð saga, með lýsingum af því, hvernig þetta eða hitt gerðist, heldur rennur ein sköpunarmyndin upp eptir aðra í viðstöðulausum straum og skiptast litirnir eins greinilega og dagur og nótt. Þessi frásaga er ekki frásaga Hebrea einungis; því nokkurnveginn samskonar frásögur finnast á assyriskum og babyloniskum töflum, uppgröfnum úr rústum borganna Ninive og Babylonar, og samskonar sögur eru útbeiddar um fjöll og dali Hindúanna, —en ímyndunar-afl hinna hebresku rithöfunda hefir fært hana í nýjan búning. Í fyrsta kapítula Móses-bókanna kemur hvergi fram að Guð hafi þurft nokkurt sérstakt efni í heiminn, eða manninn, eins og kemur fram í öðrum kapítulanum þar sem endurtekin er frásögnin um sköpun mannsins og sagt að hann hafi gert hann af jarðarleir og blásið lifandi anda í nasir hans, en skorið rif úr síðu hans og gert af því konuna. Í fyrsta kapítulanum er allt rólegt, tilkomumikið,—hátignarfullt.

Myrkrið og tómleikinn ríkti, og andi Guðs hvíldi yfir djúpinu. „Verði ljós", hljómaði þá hið hátignarfulla boðorð Guðs og samstundis spratt upp ljós og rauf myrkrið. Aptur hljómaði rödd Guðs og hann bauð vötnunum að safnast saman og jafnskjótt tók vatnið á rás og jarðskorpan teygði nakið höfuðið upp úr bylgjunum. Og enn hljómaði boðið: „Láti jörðin af sér spretta græn grös og jurtir" o. s. frv. og sjá! Samstundis lifnuðu grös og jurtir, allskonar dýr, og menn. Í þessum boðum Guðs kom fram það almætti, sem nútíðar vísindin viðurkenna, að í öllu fræi leynist ósýnilegur lífskraptur, er framleiðist samkvæmt föstum lögum.

Þessa göfugu, mikilsverðu sköpunarsögu hefir guðfræðin reynt að gera svo hlægilega sem framast verður, með því að taka hana sem bókstaflegan sannleika og halda henni þannig fram gegn rannsóknum og sönnunum vísindanna. En það er rétt eins og að taka hugmyndir barnsins sem ígildi fullorðins manns framburðar. Með því er sköpunarsöginni gerður voða-óréttur. Hún krefst hvergi, að hún sé meðtekin sem bókstaflegur sannleiki, eða Guðs eigin opinberað orð. Vér hljótum að meðtaka hana eins og hún er, þungskilin, óljós gáta um sköpun heimsins, er með fúsum vilja undirkastar sig dómi sögunnar og vísindanna. Ef vér berum hana samanvið uppgötvanir vísindanna rekum vér oss undireins á þau ósannindi, eða þann ómöguleika að heimurinn, með öllu því sem í honum er, hafi orðið til á einni venjulegri viku. Og hvernig sem guðfræðingarnir flækja, til þess að fá hvern dag til að þýða eitthvert óendanlega langt tímabil, jafnvel

miliónir ára, þá stranda þeir jafnharðan á setningunni: „Þá varð kvöld og þá varð morgun, hinn fyrsta dag.......hinn annan dag," o. s. frv., því það er hvergi minnsti vottur þess, að höfundurinn hafi annað í huga en einn venjulegan dag, við hverja þessa setningu. Sjöundi dagurinn var og heilagur ger, því þá vildi Guð hvílast, segir höfundurinn, og þessvegna er líka hver sjöundi dagur heilagur nú.

Það er auðráðin gáta, að sköpunin öll var látin gerast á 6 dögum og hinn sjöundi dagurinn gerður að hvíldardegi af því, að sabbatsdagurinn var þá viðtekinn sem helgidagur, er sagan var rituð, Því það er enginn efi á því, að löngu áður enn sköpunar-sagan var rituð, var deiling tímans í vikur, er hver hafði sína 7 daga, viðtekin og búin að ná hefð. Sú skipting tímans virðist eiga uppruna í dýrkun hinna sjö sýnilegu pláneta, að meðtaldri sól og tungli. Þessum plánetum voru margir hlutir helgaðir í forntíð og sjást mörg merki þess enn, þar á meðal nöfn daganna, einkum á ensku og frönsku. Sunnudagurinn á ensku „Sunday" (sól-dagur); mánudagurinn „Monday" (tungldagur); laugardagurinn „Saturday" (Saturnus-dagur). Á frönsku heitir þriðjudagurinn „Mardi" (Marz-dagur), miðvikudagurinn „Mercredi" (Merkuriusar-d.) fimmtudagurinn „Jeudi" (Jupiters-d.) og föstudagurinn „Vendredi" (Venusar-d.). Bæði Assýríumenn og Babylonar-búar voru strangir í helgihaldi laugardagsins og kölluðu þann dag „Sabattu". Eru því allar líkur til, að þaðan hafi Ísraelsmenn fengið Sabbats-nafnið á helgidegi sínum og gert hann svo að þýðingarmiklu atriði í trúarbrögðum sínum. Þannig hefir Sabbats-helgin haft áhrif á höfund sköpunar-sögunnar og komið honum til, að skrúfa alheims-sköpunina saman í einnar viku-verk.

Sabbats-deginum til sem mestrar virðingar, vildi höfundurinn gefa honum sem mestan æruverðan aldur. Hann gat ekki, svo vel væri, gefið honum hærri aldur, enn heiminum, og setur svo í söguna, að Guð hafi skapað himin og jörð á 6 dögum og hvílst á þeim sjöunda; þess vegna beri öllum mönnum að hvílast á þeim degi.

Ísraels-menn voru flökku-þjóð og bjuggu í tjöldum. Tjöldin voru þeirra heimili. Því er ekki að undra, þó þeir gerðu mynd af heiminum eins og afarmiklu tjaldi, þar sem jörðin væri gólfið, en hinn blái himingeimur þak. Þannig stendur hjá Esíasi spámanni, (40., 22.): „Hann þenur út himininn sem þunna voð og slær honum sundur eins og öðru tjaldi, til að búa í." Opt gekk þessi hugmund svo langt, að sólin, tunglið og stjörnurnar voru gerðar að lömpum, er hengðir voru innan á þetta þak til þess, að lýsa niður á gólfið (jörðina). Enn fremur segir Esías (34., 4.): „og himininn vefst saman eins og bókfell";

önnur greinileg sönnun fyrir tjald-hugmyndinni. En stundum kemur líka fram hugmynd um, að efni himinsins sé þéttara í sér, en voð. Þannig kemur sú hugmynd fram hjá Job (37., 18.): „Hefur þú útþanið skýin með honum, föst, eins og steyptan spegil?“ Upp yfir þessu þaki gerðu þeir sér hugmynd um, að væri saman safnað vatn, er myndaði regn og að þar uppi byggi Guð. „Hann gerir hvelfingar af vatni á sínum sal,“ segir í 104, sálmi Davíðs (3.vers). Var hugmyndin sú, að Guð léti opna gluggana á sal sínum, þegar hann vildi láta rigna, hvort heldur sem um var að gera syndaflóðs-regn,eða„manna“-regn, Ísraels-börnum til næringar. „Þó að hann réði yfir skýjunum að ofan til og upp lyki himinsins portum og léti „manna“ niður rigna yfir þá, til matar“ (Sálm. 78, v. 23.—24.). Orðin í sköpunarsögunni „verði festing“ knýr mann til, að hugsa sér eitthvað, er þanið hafi verið milli vatnanna (hinna efri og hinna neðri) til þess, að skilja þau og halda í skorðum. Vér vitum líka, að jafnvel kringum 535 ár eptir Krists fæðing var það almenn skoðun guðfræðinga og spekinga, *að* heimurinn hefði sama byggingar-snið og musteri Gyðinga, *að* englarnir hengdu út sólina, tunglið, og stjörnurnar eins og lampa og bæru himintunglin aptur og fram um brautir þeirra, og, *að* yfir öllu hvíldi hið þétta himinþak á fjórum jörðföstum stólpum, í suðri, norðri, austri og vestri.

Heimurinn hefir lengi verið barnalegur; Það er þess vegna ekkert ónáttúrlegt, þó höfundur þessarar gömlu sköpunarsögu lýsi heiminum eins og feiknastóru tjaldi og fram setji sögu sína eins og hann gerir. En þegar vísindamenn nútíðarinnar fara að „kritisera“ þessa sögu, þá verður þeim ekki vopnafátt. Þeir sjá að vísu, að þessir gömlu grufl-arar, sem skrifuðu söguna, höfðu rétt fyrir sér í því, að ljós og hiti er upphaf alls lífs; ennfemur: að framleiðslu röðin er þessi: fyrst grös og jurtir, þá hinar lægri dýrategundir, fiskar, fuglar, land-dýr, maðurinn. En svo kemur og margt fram, er þeir verða að kasta burtu, af því það ekki þolir dóm nútíðar vísindanna. Þeir halda því fram, að hver einn sköpunardagur fyrir sig hafi verið óendanlega langt tímabil. Þeir vilja segja, að dagur og nótt hafi ekki orðið aðgreind fyr, en eptir að sólin varð til, en sköpunarsagan segir, að hún hafi ekki verið sköpuð, fyr en á fjórða degi. Þeir vilja segja, að það sé ekki til neitt efnis-þétt himinþak með vatnasafni þar upp yfir. Og þeir vilja halda því fram, að grös og jurtir hafi ekki getað lifað fyr, en eptir að sólin varð til—já, þeir vilja jafnvel segja, að sólin og stjörnurnar séu miklu eldri, enn jörðin. Ekki vilja þeir heldur ganga inn á, að dýrin hafi verið sköpuð löngu eptir, að grös og jurtir voru til orðin, heldur álíta þeir, að hvorttveggja hafi verið skapað um sömu mundir.

En þó nú vísindin neyðist til, að tæta þessa gömlu sköpunarsögu í sundur, vilja þau ekki eyðileggja hana. Þau vilja auka hana og gera enn mikilfenglegri. Þeir atburðir hafa átt sér stað, eins og vísindin geta sýnt, að ofsa-hugmyndir hinna fyrstu manna jafnast ekki á við þá. Vísindin vilja sýna oss, að sköpunarverkinu var ekki lokið á einni viku, heldur að það heldur áfram enn, að það heldur áfram daglega fyrir augum vorum og mun þannig halda áfram þangað til pláneta sú, er vér byggjum, líður undir lok, að Guð hvílist aldrei, en skapar og skapar hvíldarlaust og eys úr nægtabúri sínu öllu góðu yfir allt, sem er og hrærist. Í þessari ritgerð vildum vér leytast við að sýna, hvernig hinir sex sköpunar-dagar endurtakast daglega og mynda hjá oss sköpunarsögu svo miklu stærri, en þá, er biflían hefir, knýjandi oss til lotningar og tilbeiðslu.

## I.

### *FESTINGIN OG HIMINTUNGLIN.*

Í gömlu sköpuuarsögunni er jörðin látin skipa öndvegi í huga hins almáttuga og öll önnur himintungl sögð sköpuð hennar vegna. Sól, tungl og stjörnur eru þar bara lampar, hengdir neðan í himinþakið til þess, bæði að lýsa mönnum á jörðunni og skipta tímanum í dag og nótt. Vísindin aptur á móti segja oss það, sem er mikið undraverðara, það, að jörðin sé hnattmyduð, að hún snúist um möndul sinn og að hún renni braut sína óhindruð um himingeiminn í flokki þess stjörnukerfis, er gengur umhverfis sólina. Hvar er þá „hið minna ljósið“, er sett var, „til að ráða nóttunni“? Þegar tveir landmælingamenn, í mílu fjarlægð hver frá öðrum, sjá einn og sama hlut, er frá báðum sýnist í sama stað og í sömu fjarlægð, þá vita þeir, að hann er mjög langt í burtu. En þó að þúsund mílur væru á milli mælingamannanna, sjá þeir að heldur engan mun á fjarlægð tunglins—svo langt er það burtu. En með verkfærum sínum geta þeir þó fundið lítilsháttar mun og geta svo reiknað út, að fjarlægð tungls frá jörðu er nálega $\frac{1}{4}$ milion mílna og að það einnig er hnöttur, 2,000 mílur að þvermáli. Hinar plánet-urnar eru þó enn lengra burt, svo langt, að þó annar mælingamaðurinn færi 1,000 mílur frá hinum, þá gæti hann engan mismun greint. Plánetan Marz kemur stundum svo nærri jörðunni, að auðvelt er, að mæla stærð hennar, sem er nokkuð meiri,en stærð tunglsins. Hinar aðrar plánetur eru svo langt burtu, að allt aðra aðferð þarf, til að mæla þeirra stærð. Venus er lík að stærð og jörðin, en hinar 4 plánet-

urnar eru miklu stærri. Þannig er Júpeter 10 sinnum meiri enn jörðin að þvermáli og þúsund sinnum stærri enn hún að ummáli. Nokkrar af þessum plánetum hafa og tungl, er ganga umhverfis þær, eins og tunglið um jörðina.

Allar þessar plánetur eru þó sár-smáar í samanburði við sólina. Hún er, að þvermáli, hundrað sinnum stærri enn jörðin og að ummáli milión sinnum meiri. Í stað þess, að vera „hið stærra ljósið, til að ráða deginum", eins og sköpunarsagan segir, er hún miðdepill sólkerfisins og um hana snýst jörðin og allar pláneturnar.

Gamli tilbúningurinn um efnisþétt himinþak með lömpum neðan í, umhverfist fyrir rannsóknum og sönnunum vísindanna í tungl, er renna braut sína umhverfis jarðhnetti, og í jarðhnetti, er renna, hver sína braut, umhverfis sólina. (Framhald næst.)

# Matthías Jochumsson.

Af blöðunum sjáum vér, að héraðsfundur sá, er haldinn var í haust af bændum og prestum í Eyjafjarðarprófastsdœmi hefir, í *einu hljóði*, lýst yfir óánægju sinni yfir árásum þeim, er skáldið okkar þjóðkunna séra Matthías Jochumsson hefir mátt sæta í blöðunum út af kenn ingum sínum.

Vér samgleðjumst þeim brœðrum vorum þar heima, fyrir að hafa menn, sem hafa einurð til að hrista af sér tjóðurband, sem búið er að flétta, í hátt á annað þúsund ár, vér samgleðjumst þeim og flytjum þeim þakklæti vort fyrir að hafa haft drengskap þann, að standa við skoðanir sínar, hvað sem á eptir kæmi. Vér samgleðjumst þeim, fyrir það andans fjör, sem vér sjáum þeir hafa til að bera. Marga þekkjum vér góða, frjálslynda drengi heima, bæði lærða og leikmenn, en Eyfirðingar hafa tekið heiðurskransins frá þeim öllum saman; þúsundir manna hafa glaðst hér vestra, er þeir heyrðu fregn þessa. Brœðra- og vinahönd viljum vér rétta þeim frændum vorum heima. Atburður þessi mun lengi verða merkis-steinn í kirkjusögu Íslands.—Vér þekkjum allir hin dýrðlegu ljóð séra Matthíasar. Þau eru sterk sönnun fyrir því, að vér séum andi af Guðs anda sálir af hans sálu. Sá maður getur aldrei í hlekkjum gengið, sem frjáls maður leitar hann Guðs síns í anda og sannleika, án þess að vera bundinn neinum trúfrœðislegum kreddum, dogmum eða kenningum úr meir eða minna fúnum kirkjufeðra doðröntum. Heill sé þeim öllum, sem vilja rannsaka og prófa sjálfir, öllum þeim sem leita Guðs í kærleikanum og sannleikanum.

# Kafli úr bréfi

frá *Rev. T. B. FORBUSH.*

(þýtt.)

......Mér þykir það leitt, að þér skuluð hafa komist í kröggur út af styrknum sem vér veittum yður. Ég œtlaði landa yðar svo skynsama að skilja það. Vér höfum aldrei spurt eptir því, hvort þér vœruð unitari. Vér höfum aldrei heimtað, að þér gjörðuð grein fyrir trú yðar, vér vorum ánægðir með sambandslög yðar, þótt þau væri ekki allskostar samhljóða trúarskoðun vorri. Vér sáum, að þér voruð að leiða landa yðar til skynsamlegri og betri trúar. Vér erum reiðubúnir, að hjálpa þeim, sem ljóssins leita og heimtum ekki neina skuldbindingu af þeim, er vér hjálpum, að þeir skuli hafa hinar eður þessar trúarkenningar. Þetta gengur hinni rétttrúuðu kirkju vanalega illa að skilja. En þetta er regla vor. Hreifing yðar er góð, því vildum vér styðja hana. Vér kröfðumst þess aldrei að þér kölluðuð yður unitara, eða kennduð neinar sérstakar skoðanir. Vér óskuðum aðeins þess, að þér kennduð löndum yðar, eptir yðar eigin hugmyndum allt það, sem þér ætluðuð, að myndi leiða þá til œðra lífs; kenningin kom oss ekki við, og þetta er samband vort við yður. Vér sáum að þér voruð að gjöra gott verk og þurftuð hjálpar við. ——Vér œtlum, að með þessu séum vér að fremja Guðs verk. Því allur sannleiki og allt hið góða er Guðs.“



---

*G. M. Thompson, er „business manager“ og féhirðir fyrir blaðið. Kaupendur snúi sér því til hans viðvíkjadi afgreiðslu blaðsins og borgun fyrir það. Utanáskrift til hans er Gimli, P. O., Man. Canada.*

---

Vér viljum biðja kaupendur blaðs vors, að afsaka dráttinn á útkomu þess, sem stafar af því, hve leturkaupin gengu oss erfitt, en næsta blað kemur út seint í þessum mánuði.

Gimli, 10. febr. 1893.

Ritst.

---


„DAGSBRÚN“ kemur út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vesturheimi; greiðist fyrir fram-——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

---

*Prentuð hjá G. M. Thompson— Gimli.*